# Minning

# Ragnheiðar Guðmundsdóttur.

Útgéfin

á kostnað ektamanns ennar framliðnu

Jóns hreppstjóra Jónssonar.



Videyar Klaustri.

1842.

I.

# Húsræda,

haldin á Ellidavatni, 1ta dag Septembr. 1840, af Hra. Stiftprófasti Arna Helgasyni R. af Dbr.

Ekkért þad ár hefir lidid sídan eg fluttist í þetta bygdarlag, nú fyrir 25 árum, ad eg ekki einhvørntíma á hvørju ári kjæmi á þetta gódfræga heimili, og optar enn einusinni alloptast; og optast var erindid ei annad enn njóta hér gledistundar, og hefdi þad gétad skéd, ad verda og svo til einhvørrar skémtunar þeim sem ad gløddu mig.

Nú er ekki mitt erindi þessháttar; eg kém hér til ad kvedja þá sem hér hvílir, sem med sínum gáfum og nettu ordum og gladsinni var mér svo opt til gledi; sem eg þaradauki vissi ad var í mørgum greinum svo heidursverd og merkileg kona, prýdi síns húss og síns stands. Hvíli þá þitt hold í fridi, þú heidursverda kona, þar sem Drottinn hefir ætlad því hvíld, eptir dyggilega af hendi leyst dagsverk, í

reit sinna barna. Þinn andi er inngeinginn til Guds hvíldar, og uppskér þar ríkuglega blessan fyrir þá blessan sem hann hér, bundinn þó daudlegleikans fjötrum, útbreiddi allt í kríngum sig svo lángt sem hann tilnádi, og lífsins kríngumstædur voru þess-háttar ad hann nádi til margra. Þínir tveir Ektamenn høfdu mikid heimili hvørr um sig. Þessara heimila sannkølluð módir varst þú. Þinn fyrri Ektamadur átti nokkur børn med sinni fyrri konu; þú áleitst þinn sóma ad vera þeim eins módir, og hann var þeirra fadir, og ekki einasta þeirra, heldur og þeirra afkvæma er þau áttu, og þeirra nidja. Þín eigin børn, og þeirra afkvæmi, hvørsu mikla orsøk hafa þau ei til ad þakka Gudi þad móderni sem hann gaf þeim, þar sem þú varst? Þú varst sann-kølluð módir þinna barna, og þeirra afkvæma sem Drottinn blessadi þau med. Nokkur og ekki fá af þeim ólust upp undir þinni módurlegu umsjá og alúdlegri mentun, og bera máské alla æfi menjar þinnar módurlegu ummønnunar, og uppskéra eilífle᷊a ávøxt þeirra sída, sem þeim voru kéndir í æskunni. En þú varst ekki einasta módir þinna barna og þeirra afkvæma sem af þeim kviknudu, heldur varstú og módir allra þeirra úngu sem í þitt hús komu, og faldir voru þinni alkunnu gódvild og hyggindum, í øllu því sem vidvék gódum sidum og uppbyggilegu lífi. Þín mørgu hjú — fáar húsmædur munu hafa fleiri haldid — voru og svo þín børn, og þeirra afkvæmi áleitst þú þér aldrei óvidkomandi. Þér vildi sú Guds blessan til, ad bjørg var ætíd nóg í þinni hendi, og þér gaf hann hjarta, bædi til ad midla bjørg,

og þá menn, sem voru þér í allri hjartagjæðsku fylgjandi og samverkandi. Þeir vissu líka hvílík prýði þú varst þeirra heimili; hvørsu greind og trú meðhjálp í öllu því er miðaði þeim bæði til heilla og sóma, auk þess hvað þín blíða, og þitt gladlyndi og gáfna nettleiki hjálpaði ei lítið til að sikra þeim lífsins ánægju, og létta þeim lífsins armæðu. Og hví skyldir þú ei vera þeirra unun, þegar þú varst það øllum sem þig þekktu, sem þig sáu, sem tøluðu að eins við þig fá orð? Og hvørsu margir voru þeir ei sem þar til gafst tækifæri? Þareð þú bjóst mestann þinn búskap í mestu þjóðbraut, og með orði og viðmóti og góðsemi vandir alla að þínu heimili. Með gáfnanna nettleika, þá sem høfðu yndi af honum; með góðseminni, þá sem hennar þurftu; með gladsinninu, þá sem gleðinnar leituðu, Í nálægum hérudum ætla eg eingin sú kona hafi verið sem við fleiri menn hafi, með eitthvørt slag, gétað látið meira gott af sér leiða, bæði í orði og verki. Hvartil hjálpaði bæði sá staður sem hún bjó á, það hjartalag og gáfnalag sem henni var géfið, og þær lífsins kríngumstæður sem hún lifði í; og skjátli mér ei ofmjøg, þá eru þeir ekki fáir, sem trega viðskilnað þinn, heiðursverða framliðna! en þótt þú værir komin á þau árin, á hvørjum þess er að vænta að mannsins vegferð sé á enda; því þín efri ár høfðu ekki þá af þeim anmørkum að segja, sem elli árunum plaga að fylgja. Ráðdeildin var hin sama, góðsemin, blíðan, gladlyndið, nettleiki gáfnanna var enn ekki farinn að stirðna, og sá hrumleiki, sem á þínum síðustu árum heimsókti líkamann, snerti ekki

þinn anda. Þess heldur hryggir þinn viðskilnaður alla, og þá eptir líkindum þá mest sem þér vóru næstir, þekktu best, hvað mikið Guð hafði þér gefið, og hvörsu þú brúkaðir það, og nutu hvað mest ávaxtanna af þínu lífi og lífsins heiðarlegu brúkun. En það var herra lífsins og dauðans, sem kallaði þig, skyldum vér þá ei ætla að þú sért frá oss tekin á hentugum tíma? Ættum vér þá ekki að segja með Guðs manninum forðum: **Guð gaf og Guð tók, vegsamað se Drottins nafn.** Ja, kannast mega ótal margir við, að þú varst sannkölluð Guðs gjöf, og orsök hefir þinn Ektamaður til að lofa Guð fyrir þessa gjöf, orsök börnin, orsök barnabörnin, orsök fósturbörnin, orsök hjúin, orsök ótal margir aðrir útífrá, hvörja þú hrestir, gladdir, líknaðir, með orði, viðmóti og verki. En hafa þeir þá líka orsök til að vegsama þitt nafn, þú Drottinn lífs og dauða, og svo fyrir það, að þú tókst þessa dýrmætu gjöf nú af þeim? Athugið þá að þessi gjof er ekki eiginlega frá yður tekin, þó sá andi sem í þessum líkama bjó sé við hann skilinn, og vitji hans ei í bráð aptur. Þér eigið eilíflega þá gjøf sem Guð gaf yður, meðan þér varðveitið hennar endurminníngu í trúföstu hjarta. Vér eigum fleira enn það sem vér höfum handa á milli. Sú framliðna er, þótt hún sé ei framar á þessari jörðu, móðir sinna afkvæma, ektakvinna síns manns, vinkona þeirra sem voru vinir hennar. Hún er að eins flutt úr húsi í hús, úr holdlegri tjaldbúð, í það óforgeingilega hús sem Guð hafði henni geymt á ódauðlegleikans landi. Þar hefir hún fundið sína, og þar bíður hún sinna, ept-

ír sem þeir smásaman flytjast burt frá dauðlegleik-ans landi til eilífðarinnar heimkynna, því allra leið liggur þángað. Geymið að eins þakklátlega hennar endurminníng, og hafið hana í heiðri, og hún heyrir yður til eins og hún væri hjá yður. Hún hefir falið sína Guði eins og sig, þegar sá boðskapur kom henni, að skilja við þessa jørðu, og inngánga í Herrans føgnuð; því hún elskaði sína allt til enda.

Friður sé með hennar moldum. Guð gleðji þá sem hennar andlát grætir. Guð láti af hennar ætt, margar konur koma henni líkar, unun og heill manna og heimila, prýði stands og húss, eptirlæti allra. Hann gési þessu húsi líkn við það sár sem það hefir feingið, þegar þess kóróna er frá því tek-in. Hann láti sína blessun hvíla yfir því og húss-ins ætt. Og að svo fyrirmæltu, berum vér holdleg-ar leifar þeirrar heiðarlegu framliðnu úr því húsi, sem hún svo mørg ár prýddi með því skarti sem Guð hafði henni lánað, vitsmunum, góðsemi, glað-lyndi og mørgum øðrum kvennkostum. Amen.

## II.

## R æ d a,

haldin í Reykjavíkur Kirkju vid jardarför Madme. sál. Ragnheidar Gudmundsdóttur, 1ta d. Sept. 1840, af Hra. Dómkirkjupresti Helga G. Thordarsen, Riddara af Dannebroge.

Sá Gud, sem leidir frá lífinu til daudans, og frá daudanum aptur til lífsins og eilífrar sælu, hann, vor Gud og Fadir, blessi oss þessa stundu, og veri med oss öllum á þessari leid útlegdar vorrar, en einkanlega á hinum dimma vegi gégnum daudans port — þeim sem syrgja, sendi hann þá anda huggunar, en hinum dána géfi hann eilífa hvíld med ríkisins börnum — amen.

Holdid hlýtur ad hverfa til jardarinnar aptur, hvadan þad kom, en andinn fer til Guds sem gaf hann.

Hvörsu opt sem vér erum þess vottar, ad allt hold er hey, ad allt, sem lífsanda dregur, hlýtur ad missa hann, og falla fyrir daudans veldi, svo gétum vér þó ei annad enn fundid til alvörugéfni og sorgar, hvönær sem vér verdum kalladir til ad fylg-

ja kunníngjum vorum, vandamønnum edur ástvinum til þeirra sídasta hvíldarstadar.

Þad er margt sem deyfir edur eykur hid beiska í hugleidíngunni um útfør vina vorra.

Sárbeitt er þad sverd, sem gégnumstíngur hjørtu vor, þegar ástvinir vorir skilja vid oss ad hálfnudum þeirra døgum, á únga aldri, medan vér væntum þess ad þeir mundu ennþá eiga lángt líf fyrir hendi og uppbyggilegt, edur ef þeir falla frá undir erfidum kríngumstædum, svo margir einstædíngar standa eptir forstødulausir, sem ei vita hvørt þeir skuli leita hælis, er þeir snúa heim frá grøfinni, hvørja þeir hafa vætt med tárum sínum. Þannig sjáum vér stundum ekkjur og munadarlaus børn kríngum þá grøf, sem hefir tekid frá þeim þad einasta, sem var þeirra yndi og adstod í lífinu, svo þau ei vita framar hvar hælis sé ad leita. Sárbeitt sverd hefir þá gégnumstúngid þeirra hjørtu.

Ætíd er ad vísu daudans sverd beitt, en þad er þó óneitanlega mikil fróun, þegar andinn segir oss, ad sá framlidni hafi skeidid fullendad. Vér gétum ei neitad því, ad í øllum hlutum veitir þad ánægju, ad sjá eitthvad vel og heppilega af hendi leyst — og kvedur svo mikid ad þessu, ad þad veitir oss ánægju, þó í smámunum sé, hvad þá ef um mikid er ad gjøra. Og ekki er nóg med því, ad vér føgnum yfir þessu í sjálfra vor vidburdum, heldur finnur hugurinn líka mikla ánægju af því, ad hyggja ad annara verkum, þegar þau hafa vel og farsællega verid af hendi leyst — þarámóti hryggir oss allt sem misteksT bædi fyrir sjálfum oss og ødr-

um, og einkanlega særir það tilfinnínguna að sjá góða byrjun á einhvörju, en géta ei notið framhaldsins; en þegar allt samsvarar hvað ødru: upphafið, framhaldið og endirinn, þá segir andinn oss, að yfir miklu sé að fagna, þó sá føgnuður sé blandaður þeirri sorg, sem fylgir þessu lífi: að allt, hvörsu ágjætt sem það er, verður einn enda að hafa.

Það er mannlegri náttúru eginlegt að gleðjast yfir øllu sem heppnast, sem nær að fullkomnast; og sérhvør maður fagnar þegar hann nær að leysa vel af hendi dagsverk sitt, þó ei sé meir. Þá má nærri géta hvílíkt yndi það meigi veita að renna augunum yfir lángt líf, sem frá upphafi til enda, um lángann æfidag, var lánsamt, sómasamlegt og miklum kostum búið.

Þessi er vor huggun í dag, er vér støndum hér við líkkistu merkiskonunnar sál. Madme Ragnheiðar Guðmundsdóttur. Að vísu veit eg, að það er allur fjøldinn sem hennar saknar, en eg ætla samt eg géti nærri þeirri tilfinníngu, sem flestir hafa, og með hvørri þeir deyfa sorgarinnar brodd, þegar eg gjøri þeim að hugsa útí: að hún hafði skeiðið fullendað. Þess vegna viljum vér sameginlega hyggja að þeirri meiníngu sem hérí liggur fólgin.

Að vísu gétum vér sagt, að þá hafi hvør skeiðið fullendað, þegar Guð kallar hann héðan, hvørt sem haan er ýngri eður eldri, og það gétum vér með því meiri rétti, sem vort líf stendur í Drottins

hendi, og hvør verdur þá að fara héðan, þegar Drottinn kallar hann; en þegar vér miðum skeiðið við þetta líf, og hyggjum næst að því sem fyrir augun ber, þá er manni náttúrlegt, að tala, eins og líka Ritníngin gjørir, um **byrjað, hálfnað** og **fullendað skeið**; og finnst oss þá skeiðið ekki fullendað, ef maðurinn deyr úngur eða miðaldra, en þá þykir oss fullendað, þegar þau árin eru komin, á hvørjum krapturinn er farinn með náttúrlegum hætti að þverra, og ánægjan af lífinu að mínka, en vakna laungunin til að mega fara héðan og vera með Kristi — og sýnir þá reynslan að æfin, þegar hátt stígur, nær 70 eður 80 árum, og er þó allur þorrinn sem ei nær þeim aldri; vor Sáluga var 74 ára, og var þannig búin í þessum skilníngi að full=**enda skeiðið**.

Þó er það ekki aldurinn **einsamall**, sem gjørir að skeiðið getur heitað **fullendað**, því eitt er að enda, og annað að enda **vel**. Og þó ein=hvør lifi leingi, þá getur verið að hann aldrei hafi **hlaupið á skeiðinu**, en sá eini getur fullendað skeiðið, sem á því hefir hlaupið, en ei sá sem hélt kyrru fyrir, og lét sér nægja að horfa á aðra, en lagði ei sjálfur til. Sá eini fullendar nú skeiðið sem tak=markinu nær, því sem honum var fyrirsett. En það takmark sem fyrst liggur eins og opið fyrir allra vor augum er, að vér auðsýnum dugnað og trú=mennsku í vorri stétt, að vér ekki drøgum af veitt=um krøptum til að fullnægja því starfi, sem hvør=jum af oss er feingið, að vér ekki lifum til ónýtis,

en verdum svo uppbyggilegir sem Gud gefur hæfilegleika og kríngumstædur til.

Pad má med sanni segja um þá dánu merkis- og sæmdar-konu, ad hún einnig í þessum skilníngi hafdi skeidid fullendad — lángur var hennar æfidagur, en meira er í það varid, ad mikid var hennar dagsverk — hún hafdi í sannleika borid hita og þúnga dagsins, og þreitt er hún geingin til hinnar sídustu hvíldar. Hún hafdi verid húsmódir í 46 ár. Var hún fyrst gift merkismanninum Klausturhaldara Páli sál. Jónssyni, og er það kunnugt ad hann bædi á Gufunesi og Ellidavatni héldt eitthvört það rausnarlegasta bú hér í sveit, og þó vídar væri leitad; var þar hvörutveggja fólksfjøldi mikill fyrir á búi hans, enda sókti múgur og margmenni ad. Seinna giftist hún aptur sínum nú eptirþreiandi ástvini, og átti enn sem fyrri, fyrir miklu búi ad standa, og það er mønnum kunnugt, hvílík adsókn af géstum og ferdafólki var vid heimili þeirra á øllum ársins tímum, þar sem Ellidavatn liggur í mestu þjódbraut er géfist gétur.

Med frábærum dugnadi fullnægdi Ragnheidur sál. øllum sínum skyldum sem húsmódir, med stakri ydjusemi, reglusemi og þrifnadi, og það kom einginn svo á hennar bæ, ad ei mætti sjá þess føgur merki. Pad var hvørt sem annad, ad frágángur manns hennar utanbæar, bædi ad húsasmídi og ødru, var einhvør hinn merkilegasti, en hitt var ei sídur med snild, hvørsu tilgjætt var innanbæar, og eru til vitnis um hvurutveggja bædi innlendir menn og út-

lendir. Med fyrirkonulegri røkſemd héldt hún fólki ſínu vel til vinnu og regluſemi, var heidrud og virdt af því, og það þjónadi henni med ánægju og trúmennſku. Mig furdadi opt á því, med hvada létt- og gladlyndi hún gat fagnad géſtum ſínum og geingid fyrir beina, einkum eptir ad hún var farin ad eldaſt og laſnaſt, og eins og það ævarandi ónædi ſýndiſt meiga í ſjálfu ſér vera þreytandi, jafnvel úngan og hrauſtann, en lángur vani og géſtriſin lund var búid ad gjøra henni þetta ſem ad annari náttúru, og hvønær ſem einhvør kunníngi hennar kom, var hún aldrei ſvo veik, ad ei brádi af henni ámedan, vottadi þá jafnan til hennar forna fjørs og lífs.

Bádum mønnum ſínum hafdi hún verid elſkulegur maki, og Ekkillinn tregar hana nú eptir 20 ára ſambúd eins og ſóma lífs ſíns, eins og ſinn trúfaſtaſta vin, er honum unni hugáſtum og vildi í øllu hans heidur og velferd. Med fyrra manni ſínum, vid hvørn hún lifdi í hjónabandi í 25 ár, átti hún 5 børn, hvar af 2 enn lifa, nefnilega: Próſaſturinn í veſtur-Skaptafells ſýſlu, Síra Páll Pálsſon, og Valgérdur kona bóndans Gudmundar Jakobsſonar á Vatnsenda. En af barnabørnum hennar alls 35, eru enn lifandi 18. Hún lagdi módurlega rækt vid børn ſín; og þó hún ei ſjálf ætti fleiri, þá er það allur fjøldi barna, ſkyldra, vandalauſra og umkomulauſra ſem fyrr og ſeinna óluſt upp undir hennar umſjón, og hvørjum hún gékk í beſtu módur ſtad, og var ſvo allt til hennar dauda; þeſsi børn og únglíngar, ſem bædi

fyrir laungu voru frá henni farin, og enn voru hjá henni, eru til vitnis um þá elsku, sem hún ávann sér af þeim, sem hún átti yfir ad segja. Þeir bera og hennar menjar í mørgu, bædi dugnadi, sidprýdi og reglusemi, í hvørju øllu hún var þeim sjálf fegurst fyrirmind, og þessara sorg vid hennar fráfall er bædi heidrandi og varanlegur vitnisburdur um mannkosti hennar.

Med øllu þessu ávann sú Sáluga sér þann lofstýr, ad hún hafi verid einhvør af þeim uppbyggilegustu konum, med því hún svo lángan tíma á stórheimilum stód í dugleguſtu konu sporum, bædi heima fyrir, sem og vid gést og gángandi, af hvørjum hún hefir margann mettad, sem svángur var, géfid mørgum ad drekka sem var þyrstur, margann kaldann og þreyttann endurnært af miskunsømu brjósti. Hann sem ei mun láta einn kaldann vatnsdrukk, sem géfin var í hans nafni, ólaunadann, mun segja vid hana: þad sem þú gjørdir einum af þessum mínum minnstu, þad gjørdir þú mér.

Víst hefir marga borid ílla til reyka ad hennar húsum, þessir sakna hennar, og vída verdur hennar fráfall haft í harmsøgu, og leingi mun þad ryfjast upp fyrir þeim, sem hér eptir koma ad **Ellida-vatni**, edur fara þar framhjá.

Þessi kona hafdi verid tveggja manna stytta, sómi og yndi, besta módir og húsmódir, uppbyggileg og hjálpsøm mørgum fjær og nær. Vér segjum þess vegna: ad **hún hafi skeidid fullendad.**

En þegar eg tala um ad fullenda skeidid, detta mér í hug Ritníngarinnar ord: ad til ad ná tak-

markinu, dugir ei ætíd þó madur sé fljótur, og er þar med meint, ad þó hvørs eins líf sé mikid bundid vid þá vidburdi sem hann hefir í frammi, þá sé þó enn mikid undir komid þeirri hamíngju og blessan, sem Gud vilji hvørjum veita. Og þessa ber oss ætíd ad minnast, en ei síst vid útfarir ástvina vorra, svo ad vér ei gleymum því, ad þó vér lofum adra fyrir þad sem lofsverdt er, þá ber þó Drottni einum dýrdin, sem miskunar sig yfir hvørn sem hann vill, og veitir hamíngju og lán eptir velþókknan síns vilja.

Þannig játum vér þá líka ad Gud hafdi veitt hinni sálugu merkiskonu mikla hamíngu.

Hún var komin af vønduðu bændafólki hér í Mosfelssveit*), var fadir hennar þar leingi hreppstjóri, fæddist hún þar í heiminn ad Leirvogstúngu 15. Okt. 1766, var af foreldrum hennar lagdur sá fyrsti grundvøllur til góds uppeldis, sídan komst hún á heimili Stiftamtmanns Olafs sál. Stephensens, fyrst á Innrahólmi, sídan í Videy, hvar hún naut framfara bædi í verklagi, umgengni og eptirtekt á því sem hagar á stórheimili, bædi vid heimafólk, og adkomandi, og vard henni þetta mjøg heilladrjúgt, af því fyrir henni lá ad komast í þá stødu hvar þettad gjæti komid ad góðum notum; sjálf kannadist hún alla æfi vid þad er hún átti þessum hágøfugu hjónum ad þakka, og med innilegum og vidkvæmum kjærleika minntist hún jafnan Frúarinnar sál. Sigrídar Magnúsdóttur, hvørr-

*) Sjá Ættartølu Frú Þórunnar Olafsdóttur Kmh. 1788.

ar Líka hún ei þóktist þekkt hafa, og eptir hvørri hún hafdi tekid sér snid í mørgu. Hún var tvígift, en svo heppin í hjónabandi sínu, ad sem hún hafdi leingi og farsællega lifad saman vid sinn fyrri merkismann, og hún sjálf var hnígin á efra aldur er hann deydi, þá giftist hún enn aptur ødrum manni, merkilegum dugnadar- og snildar manni, Jóni hreppstjóra Jónssyni, bjó leingi og vel saman vid hann, og fékk ad deya næst. 24 Augústi í hans fadmi, heidrud af honum og tregud. Allan sinn búskapar tíma hafdi hún ei nema einusinni bústada skipti, er hún fluttist frá Gufunesi ad Ellidavatni, og mestann sinn aldur hafdi hún alid hér í grend. Búskapurinn blessadist henni vel med bádum bændum hennar, svo hana þraut aldrei, hvørki til heimilis, né til veitínga vid gést og gángandi. Þannig hafdi Gud blessad hana med mørgum hætti. Hann hafdi og gjædt hana miklu fjøri og gódum gáfum, og staklegu gladlyndi, med hvørju ølluſaman hún gladdi bædi þá sem med henni voru, og þá sem á bæ hennar komu. Hún kunni sig einkar vel í umgengni og framgengni, var fyrirkonuleg, en þægileg, mannúdleg og vidrædisgód og lagin á ad veita ødrum gledi. Þad var og hennar skaplyndi, ad hún var einkar trygg vid vini sína, og sleit þad ei til dauda, rétti hún þeim opt fúsa hjálparhønd ef þeir voru þurfandi, og héldt því fram. Svo var hún gédgód ad einginn madur sá hana reidast, en þó einardleg í ordum sínum, og stundum, þækti henni midur, nokkud meinleg. Var þad þá eins og vant er med slíku gédslagi, ad ei þóktu betri hófsyrdi

hennar, enn reidugleg orð bráðlyndra manna. Af glað- og góðlyndi hennar leiddi það jafnaðargéð, sem svo er farsælt í umgengni og ávinnur margra hylli. Og er það sérlegt Guðs lán þeim sem hann með þessu skaplyndi lánar líka rólegan einarðleika og stjórnsemi. Það má og segja um hana, að eg hygg fáa hafa hlotið aðra eins mannhylli, því eg minnist ei þess, að eg hafi heyrt nokkurn mann, sem hana þekkti, tala um hana öðruvísi enn vel og með virðíngu.

Vér höfum þannig séð að henni var mikið gésið, enda kunni hún vel með að fara. Hún hefir nú skeiðið fullendað, með því Guð setti hana í þá stöðu, hvar allar hennar gáfur, að því sem séð verður, náðu fullum þroska, og hann leiddi hana fram á þann lífsins aldur, að úr því gat hún ei leingur að náttúrlegum hætti verið til mikilla framkvæmda. Að vísu verður sá dygðugi og duglegi aldrei svo gamall, að ei sakni menn hans, og einkum gétur þessi söknuður orðið sár fyrir þeim, sem næstir standa, þeim sem í lánga tíma og daglega hafa notið yndis af þeirra elskuverðu eginlegleikum. Þannig veit eg að ektamaður hennar lætur sér mikið finnast um fráfall hennar, og eins og hann virti hana í lifanda lífi, svo tregar hann hana nú dána, með harmi sem heiðrar trúfesti hans og þakklátsemi. En elskulegi vin! er það þó ei mikill raunaléttir fyrir yður, að um hana mátti með sanni segja, að hún hafði skeiðið fullendað, eptir að hún hafði hlaupið það kappsamlega, samt að þess vegna muni henni nú afsíðis lögð kóróna réttlætisins? Gétur nokkur íminðun við leiði ástvina vorra verið

gledilegri enn þessi, ad þeir hafi øllu aflokid, allt fullkomnad, og ei gétad leingra komist? Þegar menn eru komnir á þetta stig, hvad er þá annad eptir, enn blídlega kvedja sína og fara hédan í fridi þángad, hvar þó er enn betra ad vera; og þad var eins og ønnur hamíngja hinnar sálugu, ad Gud lét hana deya í ydar fadmi, ad hann lagdi hana ekki lángvistum í rúmid, en tók hana hédan til sín blídlega eptir stutta legu, og gaf ydur ad sjá hvar og hvørnig hún yrdi løgd, og ad tigna útfør hennar med tárum, verdskuldads kjærleika og trega? Hennar nálæg dóttir og fjærverandi sonur vilja lofa Gud fyrir hennar frelsi, og þakka honum þad lán er hann veitti til daudans elskadri módir, eins og þau þakka honum þann arf dýrra mannkosta, er hún hefir þeim eptirskilid.

Margir af oss, sem hér erum nálægir, vorum meir edur minna kunnugir þeirri sálugu, høfdum optlega verid géstir á hennar góda heimili, og verid af henni bædi gladdir og endurnærdir; vér vottum henni vora þakklátsemi, og tregum hennar vidskilnad, en vegsømum þó Gud, sem géfid hefir henni góda útfør eptir lángan og farsælan æfidag, og vér geymum hennar minníng í blessun.

Henni er nú upprunninn sá mikli Sabbatsdagur, og hún er voknud vid morgunroda eilífs lífs, hvar hennar bídur ævarandi sæla. Sérhvør ástlyndur þjón fær ad inngánga í føgnud síns Herra. Í þessum føgnudi lifir hún. Þetta er sú gudrækilega trú sem nú huggar beygdan ektamaka, børn og adra ástvini. Þessi trú lýsir eins og himneskt stjarna á

þeim myrkva vegi sem liggur til grafarinnár, og hún mun leidbeina oss nú, ef vér fylgjum þeim daudlegu leifum þessarar merkiskonu til hins sídasta hvíldarstadar.

Vér viljum geyma dæmi allra gódra manna og hyggja ád, og breyta eptir því sem lofsverdt var í þeirra fari, svo má daudi vina vorra, og hinna rádvøndu, sem á undan oss eru farnir, verda oss blessadur, svo munum einnig vér, fá geingid øruggir á móti daudanum í trausti til hans nádar, sem dáinn er fyrir vorar syndir. Þad géfi oss øllum gódur Gud, fyrir Jesúm Kristum. Amen.

# Grafskrift.

Ragnheidur Gudmundsdóttir
sem andadist á Ellidavatni 24, Aug. 1840,
fæddist í Leirvogstúngu 15. Okt. 1766.
Giftist 1794 frá Videy,
Páli Klausturhaldara Jónssyni,
aptur 1820,
Jóni Hreppstjóra Jónssyni.
átti, þegar dó, 2 børn á lífi, þridja var ádur dáid,
og 18 barnabørn af 35.
Hún var vel gáfud, dugnadar kona.
Øllum góð, prýdi síns húss.
Blídlyndi, gódlyndi og gladsinni leifdu henni
ekki ad eldast.

---

Hjartkjær er horfin mér
høfud kóróna dýr,
søknudur sárt því skér
sem leingi verdur nýr.
Hún mínar heillir jók,
sem hetja, þá neyd bar ad.
Gud gaf og Gud burt tók
Guds nafn sé vegsamad!

Ástfólgin adstod mín
álitid fagurt bar,
med gódlyndi og gáfum sín
géd mitt kjætandi var.
Til hennar horfir ønd,
í huga, eg vona þad
ad farsæla í fødur hønd
finni, og sælu stad.

Svo minntist sinnar burtkølludu unnustu.
Jón Jónsson.